# Ræda

## út af Evangelíó þann 5ta sunnudag eptir Trínitatis, hjá Lúc. 5, 1—11.

### Bæn fyrir prédikun.

O, þú eilífa, almáttuga og algóda vera! þú skapari og vidhaldari allrar náttúrunar, og stjórnari allra tilfella, í hennar ærid vidlenda ríki! Jafnvel þó vér mennirnir séum — sem allar þínar sképnur — á hvörju einu augnabliki — jafnnálægir þér, þú sem uppfyllir bædi himin og jördu, viljum vér samt, nú á þessari stundu, stakliga í anda nálægja oss tróni nádar þinnar, sem audmjúkir tilbidjendur þinnar hátignar, heitir ákallendur þinnar maktar, og vongódir átreystendur þinnar miskunar. En af því vér syndarar erum, verdur vort fyrsta ord fyrirgéfningarbón: æ fyrirgéf oss, Fadir! allar vorar syndir móti þér, fyrirgéf oss þær, vegna fyrirheita þinna, í þínum eingétna syni Jesú Christó! Þarnæst offrum vér þér audmjúku þakklæti: lof og dýrd sé þér fyrir allar þínar líkamligar og andligar velgjördir, oss veittar vegna þess sama þíns elskuliga sonar, vors medalgángara! Í þridja máta bessium vér til þín vort hjálparleitunar kvak: æ hjálpadú oss, Herra! svo héreptir sem hingadtil! Lát ekki óverdugleika vorn stífla strauma nádar þinnar, sem þinn blessadi sonur veitti híngad til vor,

með komu sinni, kénníngu og dauða! Loksins voguum vér að framleggja þá heitstreingingu fyrir þér: ó! vér heitum því fyrir oss, að kappkosta eptir þetta, að vera æ hlýðnari þínum boðorðum, æ ánægðari yfir þínum ráðstöfunum, og æ þolinmóðari undir þínum typtunum Géf oss að leita vorrar lífs-lukku á þann hátt, sem þitt heil. orð kénnir oss, og að meta því ekkert fyrir sanna lukku, nema það sem vér erum vissir um, að þín náð og velþóknan fylgir með. Géf oss að treysta forsjón þinni, en ekki forstandi voru, en nota það þó, sem þína gáfu, það litið það tekur. Lát velbrúkaðann tíma vera undirbúníng vorrar lukku í eilífðinni; en tímanligt lán eður ólán verða oss orsök svovel auðmýktar, sem þakklætis. Unn oss að læra þetta svo af orði þínu, að óskir þessar deyi ekki út á vorum vörum, heldur lifi framveigis svo í hjörtum vorum, að þaug verði að verkstofu sannrar guðhræðslu, trúar og dygða, allt til dauðans. Bænheyr oss, góði Guð og Faðir! um þetta, vegna þíns kjærleika til vor í þínum syni Jesú Kristó! Amen!

## Inngángurinn.

Sá hávitri kóngur Salómon, einhvör náttúrunnar skynsamisti skoðari, og skynseminnar saunnasti heiðrari, kynni máské sýnast talað hafa móti skynsemi og náttúru, þegar hann lét þaug orð sér um munn fara, er skrifuð standa í hans prédikunar bókar 9da kapít. svo hljóðandi: "Til að hlaupa hjálpar ekki fljótur að vera; til bardaga hjálpar ekki sterkur að vera; til ríkdóms hjálpar ekki útsjónarsamur að vera; heldur er þetta allt

komid undir tímanum og lukkunni". Þetta fljótt álitid, sýnist strída móti skynsemi, móti náttúru og móti reynslu. Var þá sá upplýsti — ja hvad meira var — sá gudliga upplýsti Salómon, á þeirri skynlausu hendinga-, edur á þeirri blindu forlaga-trú? Gildir þá einu hvørt madur breytir hyggiliga edur heimskuliga í heimi þessum? Er þá hid sama hvørt hann neytir trúliga skynsemi sinnar, edur leggur hana fyrir ódal? Til hvørs er þá ad rækja skynsemina, læra mentir og íþróttir, neyta kappsmuna og kostgiæfnis, edur því um líkt? Til hvørs er allt þetta, seigi eg, ef þad færdi eingann ard edur ávørt framar enn dárlig breytni þess óskynsama, lodurmenska þess dofna, edur leti þess hyrdulausa? Ney, Salómon, sem svo mikid hrósar spekinni, og rædur til hennar; hrósar ydjusemi og dugnadi, og hvetur þar til, gétur aldeilis ekki hafa haft þá meiningu. Sama er um þad sem hann seigir í tilliti tímans og lukkunnar, ad allt sé undir þeim komid, sannar alls ekki, ad hann álitid hafi, ad mannanna kjor í heiminum, væri undir tímans og lukkunar valdi, eins og sumir þessa heims menn sýnist lyndir vera, hvørjir ed færa fórnir neti lukku sinnar, og varpa því svo, í hennar trausti, í von rikugligs afla, úti tímans haf, og bera stundum mikid, stundum litid úr býtum. O ney! þesshátttar skynlausa heidindóms trú var lángt frá ad Salómon hefdi, edur haft giæti. Lykillinn til skilníngs þessara hans — ad vísu nokkud undarligu — orda liggur í fyrsta versi þess kapitula, sem þaug heyra til, hvar hann seigir: "ad þeir réttlátu og vitru, samt oll þeirra verk séu í Guds hendi."

Sjá! hér höfum vér þann rétta grundvöll hans trúar. Í Guðs hendi áleit hann, að öll mannlig kjör stæðu, en ekki í þeirra eigin, síðst í tímans og lukkunnar valdi; því Guð er tímans og eilífðarinnar faðir; hann er lukkunnar svo vel sem ólukkunnar — eins og allra hluta og tilfella — skikkari og skapari; undir hans eins vilja og stjórn áleit því Salómon alla mannsins hagi komna; einginn kynni því, án hans tilhlutunar, að skapa sér sína lukku sjálfur, hvað stórrar forsjálni, orku og aðburða sem hann neytti; hvar af flyti, að allir þeir, sem sjá vildu vel fyrir ráði sínu, hlytu að óttast Guð; þessvegna upphvetur hann svo opt, í bókum sínum, til Guðsótta og til að halda Guðs boðorð; og fyrir þá skuld segir hann í næstfyrirfarandi kapitula: "að hann viti vel, að þeim sem óttast Guð, muni (að lyktum) vel gánga."

Nú af því, Drottins fólk! að lærdómur þessi er svo mikilvægur, og á hans rétta skilníngi ríður svo afarmikið, þar hann og óneitanliga verður af mörgum misskilinn og misbrúkaður, bæði þeirra andligu og líkamligu velferð til skaða, þá viljum vér í þetta sinn setja oss, sem greiniligast vér getum, fyrir sjónir, hvörsu sérílagi þessi orð Salómonis: "að allt sé undir tímanum og lukkunni komið", eigi: 1.) ekki að skiljast, og 2.) hvörsu þaug rétt skilin séu. O að hann, sem er tímans og eilífðarinnar herra, hann sem er þeirrar sönnu lukku einasti höfundur, sá alvísi Guð, vildi með sínum anda leiða oss til þess rétta skilníngs þessa málefnis, og með skilníngunum til þess réttu heimfærslu, uppá vor andligu sem líkamligu kjör; já kjör, ekki einasta í tímanum, heldur og í eilífðinni. Bænheyri hann það í Jesú nafni! Amen!

1. Ad allt sé undir tímanum og lukkunni komid, á ekki svo ad skiljast: ad allt, sem skédur í heiminum stjórnist annadhvert af blindum hendíngum, edur ómfliánligum forløgum. Yfir adra hvørja af þessum følsku grundvallar ástædum byggja og hygdu margir — en þó ei allir — heidíngjar trú sína; og þessi heidindóms smekkur, finnst enn nú dyljast undirnidri hjá sumum, er látast þó kristid nafn bera. Þeir fyrri, edur sem eigna allt blindum hendíngum edur tilviljunum, gjøra lif þetta sem ad einslags kotru-tafli, í hvørju þad óvissa teníngskast rædur øllum afdrifunum; og er trú sú Guds forsjón í mesta máta til smánar, þar hún gjørir hann ad ydju- og afskipta-lausum áhorfanda stjórnlausrar náttúru, hvar allt má tilgánga sem þad vill og getur; og er þetta sú dárligasta trú af øllu, og svo godt sem madur med henni neiti Guds tilveru; enda kvedur Davíd svo ad um þá: "ad þvílíkir dárar seigi í hjarta sínu: þar er eingiun Gud", og lýsir undir eins, hvílíkt álít þeir hafi í Guds augum, nefniliga: "ad þeir séu til einkis nýtir, og séu audstygd fyrir Drottni." (Sálm. 14, 1.) Slík blind trú nidurdrepur alla borgaraliga og kristiliga dygd! Því hvad mun sá sem trúir, ad allt hvad framkémur, sé tóm tilviljan og hending, skeyta um, hvad hann adhefst, þar hann ímindar sér, ad þar sé ekkert samheingi millum breytni sinnar og tilfellanna, heldur ad allt mundi sama uppá verda — í tilliti þeirra — hvørt breytni sín væri gód edur vond. Hinir sídari, sem uppá ómflýanlig forløg halda í øllum hlutum, og seigja, ad þetta edur hitt, sem fram vid mann komi, hafi átt fyrir sér edur ødrum ad liggja, þeir

hefdu ekki gétad, hvornig sem breytt hefdu edur borid sig ad, hjá því komist; þessir — þó þeir ekki neiti Guds tilveru, (þared þeir flestir látast gjøra honum þá æru ad seigja, hann sé forlaganna høfundur), draga þó spott ad hans réttlæti og heilagleika, ekki sídur enn hinir fyrrtøldu ad vísdómi hans og forsjón, þar þeir láta hann hafa ákvardad mønnum kjør þeirra í tíma og eilífd, án alls tillits til þeirra hegdunar og eigin adburda; og þó breyta þeir sømu dagliga, þvert á móti þessari sinni trú, þegar þeir eta, drekka, leita sér naudstauddum hjálpar og sjúkum lækninga; því til hvørs gjøra þeir þad, ef allt stædi vid sama um líf þeirra og lífshagi, hvørsu sem þeir bæru sig ad? En nú er ekki med þetta búid fyrir þeim; þeir þenja þessa sína villutrú lángt vídar út, þeir heimfæra hana ekki einasta til þess náttúrliga, heldur og til þess sidaliga, og í þessu tilliti fylgja þeir líka ástædum hennar dyggiliga. Ef sjálfir þeir edur adrir drýgja glæp edur løst nokkurn, heitir þad strags: þad hefur átt fyrir honum ad liggja, hann hefur ekki gétad hjá því komist. Vid þetta hugga þeir sig og adra, og setja samvitsku sína í svefn-ró. En med þessum þánka gjøra þeir Gud berstýniliga ad orsøk til syndarinnar, og kénna honum um klæki sína; og hvornig gétur samvitskuleysid hærra stigid? Hvor vill búast vid, ad finna nokkra sanna dygd hjá þeim manneskjum, hvar slíkur þánkamáti drottnar? Hvørjar vammir og skammir géta þad verid, sem ekki sé vidbúid þvílíkir drýgi, ef gyrndin drífur þá, undir skjóli þvílíkrar trúar? Varid ydur, í Guds nafni, gott fólk! vid slíkri skadsamligri innbyrlíngu, og alid ekki á henni andvaraleysid, sálum ydar til eilífrar ólukku! Já byrgid eyru ydar — eins

og höggormurinn fyrir raustu særingamannsins -- fyri sérvitsku hjali þeirra, er telja vilja ydur trú um slíka villu! Þessvegna, med því ad áminnst Salómónis ord: "ad allt sé undir tímanum og lukkunni komid", eru aldeilis rángskilin med þetta slag, ad meina ad allt hángi af annadhvørt blindum hendíngum, edur óumflýjanligum forløgum, sem fram vid mann kémur, edur jafnvel hann sjálfur adhefst hér í lífi, svo gétur þad heldur einganveiginn verid þeirra meiníng: ad útiloka brúkun þeirra réttu medala og adburda frá vorri sídu, til ad afla oss líkamligrar edur andligrar lukku. Skyldi, til dæmis, einn þeinkja svona í tilliti þess líkamliga: "fyrst allt er komid undir tímanum og lukkunni, þá ætla eg ekkert ad erfida, eg ætla ad gánga ydjulaus og leggja hendur í kné mér, og bída þar til steikt gjæs flýgur mér í munn, eda himininn rignir braudi handa mér." Hvørsu dárlig álýktan væri þad ekki? Mundu ekki flestir álíta, ad slíkum væri leidt ad lifa, og hann væri makligur þess, ad hann úr húngri og vesæld út af dæi. Ekki breytti Pétur svo og félagar hans, (eins og Gudspjallid umgétur), og mun hann þó ekki hafa midur trúud forsjón Guds fyrir sér og sínum, enn hinir tímanum og lukkunni. Hann og þeir voru kostgjæfnir í sinnar stjettar skylduverkum; þeir þvodu net sín adra stundina, adra stundina vørpudu þeir þeim út; þeir erfidudu eptir megni bædi nótt og dag, og spørudu ekkert leifiligt ómak. Já, þad er sønn skylda manns, ad brúka sína limu og krapta, eptir sínu standi, til þess sem þeir ætladir eru; því hann skal, eins og Davíd seigir (Sálm. 128): "lifa af erfidi handa sinna"; og Salómon sjálfur (Ordskv. 10) spáir ekki ødrum lukku

í því líkamliga, enn þeim sem "forsjálliga framsylgja verknaði sínum." En svo óskynsamlig, sem áðurnefnd álykjan út af því, að allt sé undir tímanum og lukkunni komið, væri, sem eg sýndt hefi — í tilliti mannsins líkamliga ástands, í að vanrækja gëfna krapta og tækifæri, til að leita síns uppheldis, svo væri hún þó margfaldt dárligri í tilliti þess andliga. Til dæmis: ef nokkur þeinkti svo: "fyrst lukkan ræður øllu (en Guð lukkunni og einginn annar), þá verð eg eins farsæll fyrir sálu mína í tíma og eilífð, hvørt eg brúka eður ekki brúka þaug svokølludu náðarmeðøl; hvørt eg stríði móti girndum mínum og tilhneigingum, eður ekki; hvørt eg neyti krapta minna til þess góða, eður ekki; hvørt eg bið Guð um aðstoð sína og náð, eður ikki; ef hann ætlar mér eilíft líf, þá fæ eg það eins fyrir því, hvørt eg hefi nokkra aðburði til að øðlast það, eður ekki; það er hans náðargáfa — enda þeim til handa, sem mest fyrir því vinna — hvørt eð er, og mín forþénusta vegur ekkert til né frá." Hvørnig lítst ydur nú á þessa álykjun, gott fólk? gëtið þér álitið þann góðann kristinn, sem þeinkir og breytir svoleiðis? Og þó er hætt við, að snertur af þessari innbirlingu, liggi í hærri eður lægri trøppu, undirniðri, hjá sumum þeim, sem kristnir kallast. Eða hvørnig mundu þeir ella gëta vísvitandi feingið af sér, að vanrækja meðøl og tíma náðarinnar, ef þeir ekki eldu andvaraleysi sitt á þessari blindu von? En umhugsunarverdt er það samt, að margir þeir sem breyta eptir þessari skaðligu villutrú, í tilliti þess andliga, breyta samt — eins og áður tilbendt er — þvert á móti henni, í tilliti þess líkamliga. Þeir erfiða sig þreytta og sveitta fyrir því jarðneska, og neyta allrar orku og forsjálnis

til ad afla þess; sýnandi þarmed, ad þeir ekki trúa sinni eigin trú í rauninni í tilliti þess líkamliga, til hvørs allur þeirra hugur hneigist, en vilja þó láta hana duga sér, í tilliti þess andliga, frá hvørju þeir bitnir eru. Þessi þeirra ósamhljódan vid sjálfa sig, verdur þeim sterkasta mótvitni fyrir Guds dómstóli. Svo sjáum vér þá héraf, hvørsu heimfærsla þessarar villutrúar, um blinda hendingu og bundin førløg, án alls tillits til mannsins sidaliga ástands, er í hærsta máta skadlig, ekki einasta í tilliti þessa stundliga lífs, heldur — og þad allra mest — í tilliti þess andliga og eilífa. En slíkann villudóm kappkostar þó óvinur sálna vorra, sem mest má, ad efla og útbreida; já hann elur þann þánka hjá ýmsum, á rángfærdum skilníngi sjálfra undirstødu-lærdóma kristiligra trúarbragda, til dæmis: Lærdómsins um náttúru spillíngu manneskjanna, og um þeirra óhæfiligleika til alls góds; um Guds almennu, edur til allra sig útbreidandi miskunsemi; og um Christs, alls mannkynsins vegna, afrekudu fullnægjugjørd; þannig veit hann og vidleitast, ad brugga eitur, af þeim krøptugasta og besta lækníssdómi, fyrir hans misbrúkan; svo þeim aumu sjúklíngum verdi daudinn óumflýanligur; allt eins og manneskjan mætti í blindu trausti uppá Gudsnád, (hvørt heldur igégnum Christ, edur fyrir utan hann — því eins hættir bádum vid, hvørn veginn sem þeir taka, ad oftreysta Guds miskun —) allt eins, segi eg, sem hún vanrækja mætti sína eigin litlu krapta og adburdi til ad verka sína sáluhjálp, þvert á móti því, sem Guds ord berliga skipar: ad menn verka skuli sálar velferd sína med uggu og ótta (Phil. 2); képpast ákafliga eptir, inn ad gánga um þad þraungva hlidid

(Lúc. 13), og ad þeir skuli vaka og bidja, (Matth. 26) og stríða, og í þessari ydju trúir sinnast, allt til daudans (Opb. 2). Þennann ádursagda skadliga villuþánka styrkir ogsvo freistarinn med ýmsu fleiru, til dæmis: med því ad sýna ofan á, ad þeim gángi ekki alltíd betur í heiminum, sem gudligu líferni lifa, enn hinum; þeir séu opt forsmádir, fátækir og á margann hátt óláni — er heimurinn svo kallar — undirorpnir; þar á móti hafi opt strákar stærstu lukku, rángklætid hrósi opt sigri yfir réttvísinni og lýgin yfir sannleikanum. Nú svo ram- og rót-falskar, sem ástædur þessar í rauninni eru, hafa þær þó furdanliga makt yfir ofmargra hjørtum, til ad svæfa þá í andvaraleysi, og gjøra þá hyrdulausa um sína sønnu velferd, edur og koma þeim til ad leita sinnar lukku, á aldelis øfugann hátt. Þessar innbirlingar eru þó einn kvísl af lýgi þeirri, med hvørri sá vondi á tálar dróg vora fyrstu foreldra í øndverdu; þá hann taldi þeim trú um, ad þaug hefdu skada af ad hlýda Guds forbodi, um skilníngstréd gods og ills, og þaug mundu græda bædi vitsku og velsemd, med þess yfirtrodslu. En svo skadlig lýgi, sem þetta var í þad sinn, svo er hún enn, í tilliti hins ádur áminnsta. Eda seigid mér, eru þad ekki ritníngarinnar ord: "ad Gudhrædslan sé til allra hluta nytsamlig, og hafi fyrirheit bædi þessa lífs og hins eptirkomanda? (1 Tím. 4). Skulum vér þá trúa lýginnar fødur framar enn sannleikans Gudi í sínu ordi? Jesús vor sýndi í þessa dags heil. Gudspjalli, þá réttu adferd og nidurrødun, í ad leita lukku sinnar, bædi líkamligrar og andligrar. Fyrst leiddi hann fólkid til ad heyra Guds ord, og taka á móti fødri sálna sinna, þegar hann prédikadi fyrir því af skipinu;

þetta gjørdi hann ádur enn hann skipadi Petri, ad draga aptur á ný út á djúpid til fiskidráttar; aldeilis samkvæmt því, þegar hann sagdi: "Leitid fyrst Guds ríkis og hans réttlætis, þá mun ydur allt gott tilleggjast!" (Matth. 6).

Þessi á ad vera reglan og rødin: fyrst þad andliga, sídan þad líkamliga! Bid og erfida! Bænin skal helga erfidid; erfidid græda blessun af bæninni; en heyrn Guds orda skal tendra eld bænarinnar í hjartanu. Þegar hjartad er ordid ad Guds musteri, hvar Guds eldur og ofn — fyrir andagtuga bæn — brenna inni, þá verda allir líkamans limir, sem helgidóms verkfæri Gudi til heidurs; svo allt hvad madurinn med þeim vinnur — enda sjálft handaerfidid — verdur sønn Gudsþjónusta; og hvørsu gétur þad þá annars, enn til blessunar ordid, þeim sem þad vinnur! Já, líkamligt erfidi gétur sært manni ekki adeins líkamliga, heldur og andliga blessun, þegar þad unnid er med andligu skaplyndi. Svo skédi fyrir postulanum Petri, eptir sem Gudspjallid greinir. Ádur enn hann heyrdt hafdi Jesú prédikun af skipinu, var hann ekki svo lukkuligur í leitun sinnar atvinnu, sem hann vard eptir þad; nefniliga, þegar hann var ordinn svo sinnadur, ad hann sagdi: "í þínu ordi — þad er: eptir þinni skipun og í trausti þinnar blessunar — vil eg netinu útkasta." En gjætum samt ad því: ad þó Petur hefdi ekki, fyrir þessa sína hlýdni borid úr bitum svo ríkugliga líkamliga blessun, sem hann bar, hefdi hann eingu ad sídur borid þá andligu úr bitum, þar hann sjálfur ordinn var svo andliga sinnadur. Þér viljid máské spyrja: hvør gat sú andliga blessan verid, af líkamligu erfidi? Eg svara: velþókknan Guds fyrir

hlýdnina vid Jesú ord! hvorja blessan eg tel öllum líkamligum ábata þúsund dýrmætari. Hér sannadist nú þad, ad hvorki blind hending, né áskøpud forløg, voru ollandi Péturs lukku, heldur tilhlutun Guds allraheilagasta frívilja, løgud eptir brúkun þess helgada frívilja í postulans sálu. Svoleidis meiga allir — einkum Guds børn — um hagi sína dæma. Þeirra lukka hángir af Guds vilja og þeirra vilja, þegar þaug vilja þad sem Gud vill; já vilja þad, bædi í tilliti mátans, tímans og stadarins. Sá sem ødruvísi skilur þetta málefni, skilur þad rángt, og rænir Gud heidri sínum, en sjálfan sig þeirri sonnu lukku, og skal svo úttalad um þad, hvorsu øndverdliga áminnst Salómons ord: ad allt sé komid undir tímanum og lukkunni, eigi ekki ad skiljast, edur eigi ad takast í neitandi meiníngu, en hvorsu þaug þar á móti takast skuli í játandi merkíngu, edur hvorsu þeirra bókstafligu merkíngu meigi til sanns vegar færa, viljum vér nú framveigis nokkud yfirvega.

2. Og er þad þá fyrst ad athuga, ad Gud hefur alla hluta í hendi sér, og stjórnar øllu, sem og líka tímanum og lukkunni; þaug eru hans verkfæri og sem þénarar, er hann brúkar eptir sinni vild, og framkvæmir med þeim, þad sem honum gott þykir, einkum þad sem oss manneskjum gétur til nota ordid, ef vér høfum vilja og vit á móti ad taka. En þad er stundum ordatiltæki heil. Ritníngar, ad eigna verkfærinu edur medalinu þad, sem verkmeistaranum eiginliga tilheyrir. Svo stendur hjá Hoseas (kap. 2): ad himinn skuli bænheyra jordina, jordin skuli bænheyra kornid og vidsmjørid, og þessir hlutir skuli bænheyra Israel."

Nú er þó auðvitað, að Guð er sá sem þetta gjörir, en ekki þeir dauðu hlutir. Svo er eins varið um tímann og lukkuna; sá alvaldi hefur þaug í hendi sér, og lætur þeirra afleiðingar falla, eptir sinni réttlátu og vísdómsfullu velþókknun; því seigir Sirak: "allt kémur frá Guð, lukka og ólukka, líf og dauði" (Sír. 11). Og Drottinn sjálfur talar svo fyrir munn Esajæ (45): "eg gjöri ljósið og eg tilset myrkrið, eg er sem friðinn géf, og tilstikka hið vonda; eg er Drottinn sem allt þetta gjöri." "Já, er þar ólukka í staðnum (seigir Amos 3), sem Drottinn ekki gjöri?" Þegar Drottinn í öndverðu skóp heiminu, já, áður enn hann skóp hann, í frá eilífð, sá hann fyrirfram, í ljósi sinnar alvitsku, allra manneskna hagi og hegðun, í gégnum allar heimsins ókomnu aldaraðir, frá því fyrsta mannsbarni til hins síðarsta; ekki einasta sá hann fyrirfram öll þeirra verk, vond og góð, heldur og svo öll þeirra orð og alla þeirra þánka, eins þá smákvæmustu, hvörra að vér sjálfir valla varir verðum; hann sá fyrir allar orsakir og orsaka orsakir, allar verkanir og verkana verkanir, svo vel þær sjálfráðu, sem ósjálfráðu; hann sá þetta allt gløggligar, enn einn með heilskignum augum, um hábjartann dag, sær talið fingur sínar. Eptir því sem hann nú sjálfur sá, að manneskjurnar mundu brúka sjálfræði sitt, hlaut hann í alvitsku sinni að ákvarða lukku þeirra og ólukku, líf og dauða; já fordæmingu þeirra og frelsun gégnum allar komandi eilífðir. Þú seigir máské: hafi Guð ákvarðað slíkt fyrirfram, þá eru það forløg, sem einginn fær umflúið. Gjæt að, minn vin! hvað þú þeinkir og seigir! Veitstú ekki, að Guð hefur — þar sem manneskjur eiga hlut að — að sýsla við verur þær, er hann gjædt hefur

skynsemi og frivilja? Nú svíptir hann þær hvörigu þessara, þó hann viti og sjái, ad þær misbrúki þad; en af því hann alvitur er, verdur hann ad sjá þad fyrir; því alvitur væri hann ekki ella. Nú þar sem hann sjer þad eins gløgt, þúsund milliónum árum ádur enn þad skédur, eins og á því augnabliki, sem þad virkiliga vidber, þá hlýtur hann eptir því, sem réttvís dómari, ad ákvarda fyrirfram tilfelli mannligra kjara; til dæmis: sjái hann, ad einn muni hér í lífi ástunda ad hegda sér sem best hann gétur, eptir reglum hans bodorda, sem hønum unnt verdur ad þekkja, hvört heldur af náttúrannar einnrar, edur og svo af Ritningarinnar løgbók: dæmir Gud, ad hans tímanligu lífskjør, skuli svara hegdun hans, ad svo miklu leiti hann sjér ad þad ei skada muni, heldur stoda hans sønnu lukku í hans heilu tilveru. Nú bid eg ydur, gott fólk! ad gjæta vel ad, hvörnig eg til orda tek! Eg seigi: hans *sønnu* lukku í hans *heilu* tilveru. En hvør lukka má *sønn* kallast? hvört sú sem kitlar líkamans sansa litla stund, svo hún svæfir sálina um hríd, en kvelur hana í stadinn óendanliga, þegar hún vaknar? Og hvad er mannsins *heila tilvera*? Er þad einasta augnabliks tími þessa lífs, og ekki miklu heldur eilífdin sjálf, sem hønum ætlud er? Skyldi þad þá vera samkvæmt *vísdómi* og *réttlæti* Guds, ad láta augnabliks eptirlætid hindra eilífdarinnar sarsæld, og ekki miklu heldur (nær hann sæi fyrir, ad þad duga mundi), sýra litid eitt augnablikid, til ad meiga sykra eilífdina? Og sú mun orsøkin, hvar fyrir hann ekki alltíd lætur þeim trúustu og hlýdnustu hér í lífi heppnast þaug bestu líkamligu kjør, þegar hann sjer fyrir, ad medlætid muni verda þeirra sansaliga edlí

ad sætu eitri, sem drepa kunni trú þeirra og dygð, ad andinn gèti þess heldur haldid sínu ósserdta frelsi, og þeir svoleidis, fyrir nokkurt mótlæti, ordid hæsiligir ad njóta þeirrar sælu, sem eilisliga varir. Stundum lætur hann og þeim ógudliga um hríd hèr í heimi vel gánga, þar hann máské sèr fyrir, ad mótlætid muni ekkert bata þá, og ad þeir muni, hvørt heldur þeir reyna blídt edur strídt, ráfa á þeim breida veigi til eilífrar glötunar; en hann hyrdir ekki um ad kvelja þá fyrir tímann. Stundum líka straffar hann þá hèr í lisi þekkjanliga, ef hann fyrir sèr, ad þad muni þeim sjálfum — edur þá ødrum, ad minnsta kosti, sem til þess vita — til uppvakníngar þénad geta. Af þessu kémur þad, svovel í tilliti gódra sem vondra, ad þó tveir byrji sama fyrirtæki, í því líkamliga, med jafnri forsjálni og kostgjæfni, fá þó fyrirtektir þeirra mikid misjöfn afdrif; þad lukkast ødrum, sem ødrum ekki lukkast; þar fellur annar, sem annar stendur; ødrum verda sínir atburdir til heidurs og hylli hjá mønnum, ødrum til minkunar og skada; af annars kappsmunum sýnist stundum strags leida mikid gott fyrir adra og þad almenna, af annars þvert á móti litid gott, já kannské — skjótt á ad líta — framar íllt enn gott; og þetta kann ad bera til jafnvel í þeim atburdum, sem mida þó til ad efla útvortis, ekki sídur sidalig gjædi, enn líkamlig. Þó lætur Gud ogsvo allopt hèr í lisi gódann ávørt svara gódu útsædi, svo mønnum ekki hugfallast skuli, ad reyna til ad búa, sem best þeir géta, í hag fyrir sig og adra, á líkamliga og andliga vísu; en til þess menn þó ekki þursi ad freistast til ad reida sig á sína eigin atburdi og forsjálni, lætur hann þetta opt líka svo — ad sýn en ekki raun — bregdast. Eg

seigi: takid eptir því! ad sýn, en ekki ad raun; því í verunni, hvörnig sem útfallid á sanngódum atburdum — til þess andliga góda stofnandi — sýnist fyrir manna augum hér í lifi verda, er þó alltíd víst, ad gódur ávøxtur flýtur af gódum verkum, opt ad sönnu dulinn hér í lifi, en efalaust augljós og opinber í ødrum heimi. En þad er margra yfirsjón, ad þeir eru of-brádlátir, og vilja strags uppskéra, sem þeir eru búnir ad sá, og verda vonlausir, ef ávøxturinn undandregst leingur, enn þeir gjørdu sér í grun; vid hvørju þeim hættast er, sem of-fastbundnir eru vid þetta líkamliga, og horfa meira á sína eigin æru, ábata edur ánægju, enn á Guds dýrd, og annara sanna gagn. En hinir, sem ødruvísi lyndir eru, þeir erfida og sá í vominni, og bída í þolinmædi þess uppskéru tíma, sem Gudi er þóknanligastur.

Undir sama skilyrdi, sem adrir gudligir atburdir þeirra gódu, til þess góda, er ogsvo bænin, (hvør ad er einkennis æfing allra sannra Guds barna, en verdur eptir hendinga- og forlaga-trúar ástædum hégómlig og einkis nýt, þar hún — seigja þeirra dýrkendur — kunni alls ekki ad umbreyta hlutanna gángi, sem fljóti annadhvørt af stjórnlausum hendingum, edur ofrikisfullum forløgum); hún, bænin, seigi eg, er fyrir Gudi undir sama skilmála, sem adrir atburdir Guds barna, til ad efla í heimi þessum þad sanna góda, nefniliga á þann hátt: ad svo sem Gud frá eilífu fyrir fram sá, hvørjir af mønnum, hvørt eg edur þú, minn bródir og systir! í tímans framgángi, sig rettiliga bidja og ákalla mundu, þá annadhvørt nidurradadi hann í skøpuninni, hlutanna gángi svoleidis, edur ásetti sér, ad láta þad í tímanum taka þá vendingu,

sem svaradi bænum vorum, hvør nidurradan edur ásetníngur hefdi vissuliga ødruvísi ordid, ef hann hefdi fyrirfram sjed, ad vér mundum sig einkis bidja. Svo bænheyrsla Guds er þá ályktud frá eilífd, eins og bænagjørd þín og mín er frá eilífu fyrirfram sjen. Þó dregur Gud, sem sýnist, bænheyrsluna hér opt, um nokkurn tíma undan, eins og, eptir ádurfsøgdu, ávøxtinn af ødrum gódum verkum barna sinna, hvør þó vissuliga framkémur á sinum tíma, og er opt framkominn fyrri enn sjest, en dylst hér í Guds akri á medal þyrnanna; uns hann lokfsins í eilífdinni, ad øllum þyrnum og þistlum upprættum, kémst til ad bera fullkomin blómstur óvisnanligrar dýrdar og sælu.

Svona, elskuligir vinir! stjórnar nú, ad mér vyrdist, alvaldur Gud tímanum og lukkunni, allt eptir því sem hann sjer, ad vér manneskjur brúkum edur brúka munum, skynsemi vora og frjálsrædi, svo allt verdi ad lyktum annadhvørt réttvísi hans edur miskun til dýrdar, og sjálfsagt, allt um sídir, til góda þeim sem hann hér óttast og elska. Uppá þetta meigum vér, ad minu viti, óhætt reida oss í lífi og dauda!

Vid þetta tækifæri vil eg leifa mér ad minnast þess ordsháttar, sem ad sønnu frá heidnum kominn er, en margir kristnir hafa þó eptir þeim tekid, nefniliga: "ad sérhvør sé sinnar lukku smidur." Þessi setníng getur bædi verid sønn og ósønn, allt eptir því, frá hvørjum sjónarpúnkti madur á hana litur. Horfi madur ofstamt fram, og á of einstøk tilfelli, reynist hún opt ósønn og skjufull, eins og upphafliga áminnst Salómons ord: "ad til ad hlaupa hjálpi ekki fljótur ad vera," og svo frv. Þar áminnstur ordsháttur sýnist

að gjöra allt ofmikið, en Salómon allt oflítið af mann-
síns eigin atburðum, til að efla lukku sína; því eins
og reynslan sýnir opt það síðara nokkuð að verkum
gjöra, svo líka það fyrra þráfaldliga að bregðast.
Þessvegna er það ekki alltíð að kénna leti eins og
óforsjálni, né að þakka ýðni annars og útsjón, þó sá
fyrri komist hér í lífi stundum í fátækt og armóð, en
hinn til ríkdóms og upphefðar, heldur flýtur það af
hulinni Guðs forsjón, eptir sem eg áður tilbendt hefi,
sem úthlutar þeim líkamligu kjörum, eptir sinni vís-
dómsfullu velþókknun, því hann "gjörir bæði fátækann
og ríkann, hann upphefur og niðurlægir", seigir Ritn-
íngin. Stundum lætur hann einn sinn vin verða
hér fátækann og fyrirlitinn, þó hann breyti, sem sýn-
ist, allt eins guðliga og forsjálliga, sem hinn, er hann
setur til ríkdóms og metorða; og eins lætur hann
stundum einum óguðligum lukkast bæði leifiliga og
óleifiliga atburði, til að verða farsæll í hérvistinni;
en aptur á móti lætur hann annann lyndislíkann hrapa
úr einni ólukkunni í aðra, hvörsu sem hann brýtst um
á hæl og hnakka, til að ná heimsins geingi. Þessu held
eg einginn géti, með góðum ástæðum neitað, sem með
gaumgjæfni fyrir sér vyrðir hlutaunà gáng í heimi
þessum. En horfi maður nú á þessa áðursögðu setn-
íngu: "að hvör sé sinnar lukku smiður", frá öðrum
lángt viðsýnari sjónarpúnkti, enn þeim áður áminnsta,
sem lítur aðeins til þessa nærveranda stundliga lífs;
horfi maður í huga sínum, út yfir tímans takmerk, til
mannsins heila tilveru skeiðs, svo vel í eilífðinni, sem
í tímanum, fær setníng þessi allt annað útlit. Áður
gat maður valla sagt, hvört í henni lægu meiri sann-
indi enn ósannindi, sem reynslan og dagliy dæmi sýna;

en þegar madur tekur hana undir kvern, svo vel á andliga sem líkamliga vísu, svovel í tilliti þess eilífa sem þess stundliga, verdur hún sannleikanum lángt sviplíkari; já heil. Ritníng undirskrifar þá úrskurd hennar nokkurnveiginn algjørliga; hún seigir, "ad hvør einn muni uppskéra, eptir sem hann hafi nidursád, ad þeir sem nidursái í holdinu, muni af holdinu skadsemi uppskéra, en þeir sem nidursái í andanum, muni af andanum uppskéra eilíft líf." Hér sjáum vér, hvad heil. Ritníng lítur lángt fram í aldirnar; hún telur ekki manneskjuna lukkuliga né ólukkuliga fyrr enn í eilífdinni. Þar sést fyrst, en sjaldan fyrri, hvørsu hvør einn hefur hér í lífi lagt grundvøll lukku sinnar. Hrósi því eingin lukku sinni, þó hønum heppnist hér betur enn ødrum, vidleitni sín, ad efla sína edur annara líkamliga lukku; enda ekki þá andliga, ad því leiti, sem eintóm útvortis merki sýna. Ørvænti og einginn ad sínir atburdir til góds muni nokkurn ávøxt færa, þó ekki sjái hann hann svo hér í lífi, sem hann vill; já þó hønum sýnist ekki annad enn þyrnar og þistlar spretta þar upp, hvar hann þóktist þó til hveitis sád hafa; já, ørvænti hann ekki samt, seigi eg. Sædid, þó gott sé, liggur stundum skémur, stundum leingur nidri, ádur þad uppkémur, þegar jørdin er ekki svo gód, sem því svarar, edur vedráttan óhagstæd; samt deyr þad ekki alltíd út fyrir þad, heldur kémur upp med ávexti, þó seinna sé. Eilífdin, eilífdin skal sanna þad og sýna, ad ekki var til forgéfins erfidad í Drottins víngardi! Haf þessvegna, þú Guds erfidis-madur, hvør sem þú ert, þolinmædi! Bíd þá Guds tíma! Hann mun þó vissuliga umsídir — ef þú þreytist ekki gódu sædi ad sá í akur hans — látta þig óþreyttann uppskéra! Hugs-

adú svo, þegar þú erfiðar, enn ávinnur lítið; þegar þú neytir allrar atorku og forsjálnis, sem Guð gèfur þèr, en lítið vill þó ávinnast; þegar þú biður hann og ákallar um ávøxt, en sjer hann þó sáralítinn, hugsaðu þá, segi eg, til Jesú orða við móður sína: "mín stund er ennnú ekki komin!" Bið þú í þolinmæði eptir Guðs tíma og stundu, og trúðu honum fyrir ávextinum; það er þitt að planta og vøkva, en Guðs að gèfa ávøxtinn. Ef þú nú reynist trúr í því að gjøra það sem þèr ber í hans nafni og umboði, þá vit fyrir víst og satt, að hans trúfesti muni enn síður bregðast; því hann er trúr og neitar ekki sjálfum sèr; hann mun víst gèfa ávøxtinn af atburðum þínum, og það þèr sýniligann; ef ekki í þessu lífi — vissra orsaka vegna — þá sannarliga í því eptirkomanda. Trúðu þessu fastliga og efastú ekki! já, lát dæmi það, sem vort heil. dags guðspjall umgètur, þèna þèr til trúarstyrkíngar! Pètur hafði alla nóttina erfiðað við sinn fiskiveiðiskap, (hvør tími, nefniliga nóttin, haldinn er almenniliga hinn aflavænligasti); hèr brast þá ekki — á Pèturs síðu — hvørki ýðni nè forsjálni, þó aflaði hann ekkert; svo hann hafði sveittst og þreyttst til forgèfins, alla nóttina, í líkamligu tilliti; því í andligu tilliti, eður hvað snerti það, að hann hafði gjørdt skyldu sína, eptir sínu standi, sem erfiðismaður, er lifa skyldi af handafla sínum, í því tilliti hafði hann alls ekki erfiðað til forgèfins. Guði voru erfiðismunir hans og atburðir eins kjærir fyrir það, þó hann aflaði ekkert; hann álítur dygðina í verki manns; hún heyrir manninum til, en ávøxturinn er frá Guði. Hvør sem erfiðar í sinni stjett trúliga, hvør sem hún svo er, og þó arðurinn af vinnu hans verði svo sára lítill, að það sýnist

sem hann sái í sandinn og plægi oldurnar, er þó Gudi — í því tilliti — lángtum kjærari, enn letimaginn, sem liggur ydjulaus, og þó himininn rigndi yfir hann rauda gulli. En í tilliti Péturs bjó hér nokkud annad undir frá Guds hálfu; hann átti ad reynast, og med reynslunni undirbúast til stærri hluta. Honum var ætlad innanskamms ad inngánga nýtt stand, og hann átti ad leggja fyrir sig annann veidiskap; þessi reynsla, sem hann fékk, var honum því ómissandi; en þánkamáti sá, til hvors hún átti ad leida hann, var honum þó ekki einasta naudsýnligur sem postula, heldur verdur hann ogsvo á sinn hátt, ad finnast hjá ollum þeim, sem andligir Jesú lærisveinar heita vilja; því andinn er og verdur ad vera hinn sami hjá ollum Guds bornum, hvorsu mismunandi sem þeirra útvortis stand og kjør vera kunnu.

Fyrst skyldi þá trú Postulans reynd verda, því hún er undirstada alls andligs góds; þad skyldi nefniliga uppskátt verda, hvort hann trydi svo Jesú ordum, ad hann í trausti þeirra vildi draga út á djúpid til fiskidráttar, á ólíkligustu tíd, eptir þad hann alla náttina á undan hafdi forgéfins erfidad, og hans eigin atburdir og útsjón hreint brugdist.

Þarnæst skyldi hlýdni hans reynast, því hún er trúnni eins náskild, sem byrtan ljósinu; þad skyldi því sýna sig, hvort hann nú, nýkominn af skipsfjøl, likliga þreyttur, samt hvildar og næríngar þurftugur, vildi samt vera svo hlýdugur Jesú ordum, ad taka strags fyrir sig nýann ródur, og mæla þar ekkert á móti, þó tilraunin sýndist óárædilig.

Hér ad auki skyldi gudrækni Postulans hér med reynast, hvort honum yrdi nú fyrr ad veigi, ad taka

sér, eptir heillrar nætur voku og erfidi, líkamliga hvíld og endurnæringu, ellegar ad géfa sig til ad heyra prédikun Jesú, og jafnvel ljá honum skip sitt til prédikunar-stóls; gudrækni er fóstra trúarinnar; hvar fyrir ad þessi deyr, ef hin verdur dádlaus.

Lokksins átti sjálfs-afneitan Péturs ad setjast hérmed í reynslu-skóla; hún skyldi reynast med skorti og gnægd; fyrst med skortinum, þær hann afladi ekkert heilu nóttina, og hafdi því eydt tíma og erfidi til ónýtis, en mun hafa, ad líkindum, verid bjargrædisnaumur heima; samt vard hann ekki óþolinmódur, edur greip til neinna óyndis úrræda, heldur leitadi sálu sinni sadningar í Guds ordi, þó sá líkamligi fordi væri á fornm. Því næst var hans sjálfsafneitan reynd med gnægdinni, þar honum kom óvart sú stóra heppni af þeim mikla fiskidrætti; nú skyldi sjást, hvad honum þækti vænt um ábata sinn, hvört hann mundi nú ekki géfa sig allann vid ad hyrda hann, og græda á honum sem mest, og verda hreikinn af lukku sinni; hvört hann mundi ekki yfirgéfa Jesúm, ad minnsta kosti um stundar sakir, medan hann væri ad hagtæra og virla afla sínum, sér og sínum til nota. Ney, lángtífrá! þetta gjördi Pétur ekki né félagar hans; þeim józt ekki, eins og ofmorgum, ágyrnd med eyrir hvörjum; og þeir kusu heldur sína gömlu fátækt, í Jesú eptirfylgd, enn þann nýa ríkdóm, til ad svipstast henni. Þeir ad sönnu fluttu med gledi fiskihledsluna á skipunum til lands, og eptirlétu sídan ödrum ad njóta þess, sem þeir aflad höfdu, en geingu sjálfir slippir og snaudir frá, og fylgdu Jesú eptir. Þetta var stór og merkilig sjálfsafneitan! Flestir af oss mundu ödruvísi breytt hafa. Þeir sem best hefdu gjördt, mundu hafa bedid Jesúm,

ad lofa sér ad fara fyrst og hyrda afla sinn, og heitid, ad koma sídan aptur til hans, ad því búnu; en þetta giørdu ekki þessir gódu menn; og vér sjáum, ad Jesú líkadi adferd þeirra mikid vel; enda seigir og gudspjallamadurinn Marcús, ad hann verid hafi hvatamadur hennar. Þannig reyndust nú þessar egta kristindóms dygdir, vid þetta tækifæri, hjá Pétri og stallbrædrum hans, nefniliga: trúin, hlýdnin, gudrækni og sjálfsafneitanin, á hvørjum svo mikid rídur hvørjum einum kristnum manni, og einginn gétur sá sannkristinn verid, sem ei hefur þær til ad bera.

En fyrir utan þad, sem þetta kraptaverk Jesú skyldi leida í ljós, svo vel sem styrkja, ádursagdann þánkamáta hjá postulanum Pétri og félögum hans; þánkamáta, sem þeim var naudsýnligur, í hvørju heldst standi sem þeir lifad hefdu, ef þeir annars vildu vera sannir gudsdýrkendur, eptir hans lærdómi, þá átti nú þetta sama kraptaverk, á stakligann hátt, ad þéna þeim og hønum til undirbúnings þess postulliga embættis, er þeir skømmu þar eptir áttu á hendur ad takast, þar þeir, á andliga vísu, áttu ad leggja út á þad stóra veraldarhaf, til ad veida manneskjur til Guds ríkis. Nú þar sem þessi veidiskapur var, fyrir mannligum augum, eingu líkligri, heldur jafnvel ólíkligri, til aflasældar, enn hinn, þá þurfti bædi æfda og sterka trú, til ad rádast útí svo hættuliga verferd; þessvegna átti þá þessi yfirnáttúrligi fiskidráttur: fyrst, ad sýna Pétri og félögum hans ofan á þad, ad ekki væri, eptir útlitinu ad fara, í erindum Guds ríkis, því þad sem ólíkligast sýndist stundum fyrir mønnum, kynni ad fá gæfusømustu afdrif, þegar þad stofnad væri í Guds nafni og hønum til dýrdar, svo ekki væri orsøk ad hika

við, hvorjar ófærur sem í vegi vera sýnduſt. Því, til dæmis, hvorsu óáræðiligt mátti það sýnaſt, að Pétur og hans líkar, einn ólærður og einfaldur almúgamaður, skyldi fara að vogaſt til að kénna þeim háskrift-lærðu og sjálfs-réttlætisfullu Phariſæurum, meðal sins fólks, nýann veg til Guðs ríkis; eður annars koſtar þeim af ſinni heimspeki og veraldarmakt ſtoltu heiðingjum, að leggja niður ſinn gamla átrúnað, sem þeir og forſeður þeirra haft höfðu um margar aldir, og fullur var með ſterkuſtu tillokkanir fyrir ſkilningarvitin og það spillta náttúrufar; og þetta var þó einmidt þeſs poſtulliga embættis augnamið. En þeſſu næſt ſkyldi poſtulinn af þeſſu kraptaverki Jeſú læra, að trúa Guðs forſjón fyrir ſér og ſínum, í ſinu ákvarðaða embætti, þó ekki ſæi hann alltíð fyrir augunum hvað eta ſkyldi, þegar hann aðeins ræki ſins Herra eríndi dyggiliga. Því til dæmis: hvorſu litlar vonir höfðu opt poſtular Jeſú, á þeirra embættisreiſum hans vegna, um líkamliga forſorgun, þegar þeir bláfátækir og opt rétt fararkoſtslauſir, máttu hrekjaſt innanum ſjandmenn ſína, ſem ekki einaſta ekkert hyrðu um að ſeðja húngur þeirra, heldur og ſóktu eptir dauða þeirra, eins og ødru ſigurhróſi. Svoleiðis ſkyldi þá poſtulinn ſannſæraſt um það, — ſem oſs øllum líka ſvo ríður á — að øll vor lukka, líkamlig og andlig, er einſkiær náð frá Guði, en aldeilis ekki tilunnin með vorri eigin framſýni og aðburðum. Þannig útlagði líka ſjálfur Pétur þennann mikla fiſkidrátt, (og vel ſé þeim, ſem það af honum læra, og eins breyta!) Hvað gjørði hann þá og þeinkti, þegar hann hafði þennann haſtarliga og óvænta gróða millum handa ſér? Ekki varð hann þeſs ſtoltari, ſem hann varð ríkari, eins

og sumum hvorjum hættir til, né raupadi af láni sínu, edur forsmádi þá hjá sér, sem ekki væru eins feingisælir; ei heldur fór hann ad hugsa sig um, hvornig hann gjæti sem mestann ábata haft af þessum afla sínum, né misunnti ødrum ad njóta hans med sér, þar Gud hefdi géfid sér einum hann, en ekki ødrum. Ney! ekkert af þessum; gródamanna og maurapúka þánkamáta, fannst hjá þeim fróma Pétri; þvert á móti vard hann þess audmjúkari, sem hann vard ríkari, og fann til óverdugleika síns því betur, sem Gud gjørdi betur vid hann. Hann lét medlætid, sem opt byrgir fyrir ødrum syndir þeirra og sálar vesæld, kénna sér ad þekkja þær þess betur. Hann veik sér því, seigir Gudspjallid, ad knjám Jesú, sem sat í skipinu, féll hønum til fóta, og sagdi, fullur af blygdun og furdu: Æ, eg er syndug mannsképna, Herra minn! eg er óverdugur ad koma nærri þér, sem svo heilagur ert! hvornig gatstu feingid af þér, ad gjøra mér svo mikid gott, mér, sem svo vondur og óverdugur er? Svona lagdi nú Pétur út lukku sína. Gud gjæfi ad allir legdu sína lukku eins út! já, ad vísu, allir sannkristnir gjøra svo! Þeir þeinkja og seigja med sjálfum sér, þegar Gud lætur þeim eitthvad ad óskum gánga: "med hvorju hefi eg til þessa unnid af þér, himneski Fadir! Æ fyrir syndir mínar var eg víst alls annars maklígur, hefdir þú viljad í rétt vid mig gánga. Já, mínum eiginn atburdum er þetta ekkert ad þakka; hvorju þá? eingu nema þinni einskærri nád og miskun! Æ lát hana þó ekki einúngis framkoma vid mig í því líkamliga, heldur allra heldst í því andliga!" Þannig þeinkir nú eitt Guds barn og ályktar. En þad varar

sig þó við því — já, vörum oss við því allir, kæru bræður! — að blanda ekki ofmjög saman því líkamliga og andliga; meiningin er: að dæma ekki um sína eður annara andligu lukku og ólukku, af því líkamliga. Ney, það kémur allt uppá hjartalag manneskjurnar, í báðum tilfellunum, fyrir Guði. Ef það er helgað eptir Guðs vilja, er lukka og ólukka, meðlæti og mótlæti manneskjunni, á vissann hátt, jafnhollt, og gjörir hana hvörki betri né verri í sjálfu sér; en sé hún óhelguð í anda, er meðlætið henni ekki framar meðvitni um Guðs náð enn mótlætið mótvitni; og mótlætið forbetrar hana heldur aldrei meðalslaust, það er: nema hún brúki þaug meðöl og aðferð, sem Guð hefur lént oss öllum og kénut, til að öðlast nýann anda og helgað sinnisfar fyrir hans augliti. O hvörsu dárligar, hvörsu ólukkuligar eru þá manneskjur þær, sem leita sinnar einustu lukku, í heimi þessum; heppnist þeim leitin, verða þær þess vesælli á andliga vísu, og sofna æ fastara og fastara á uggaleysisins svæfli; heppnist þeim hún ekki, verða þær að sönnu ekki vesælli fyrir það í rauninni, (því ei gétur vesælla verið, enn að vanta Guðs náð), en dóms áfelli þeirra verður samt á síðan máské þýngra, þar þær létu ekki skaðann gjöra sig hyggnar. En aptur á móti eru þeir, sem sannann Guðsótta geyma í hjarta sínu, æfinliga eins lukkuligir; þeir eru eins lukkuligir í fátækt, sem ríkdómi, í forsmán sem virðingum, í sjúkdómi sem heilbrygði. Þeir eru þess þakklátari, auðmjúkari og ástundunarsamari til góðra verka, sem þeim líður betur; enn í mótlætinu framskín þeirra ánægjusemi yfir síns himneska Föðurs ráðstöfunum; þeirra þolinmæði undir hans föðurligu typtunum, og þeirra lifandi von og traust á hans fyrirheitum, einkanliga í tilliti þess andliga og eilífa, því það líkamliga liggur þeim í léttu rúmi, en hitt efast þeir ekki um, að Guð muni, fyrir Jesú Christs skuld, náðarsamliga uppfylla, á hönum sjálfum þókknanligum, en þeim allra hentugasta tíma.

Lærum því, bræður og systur! eptir postulans ráði, lærum að skikka oss í tíðinni! lærum af hans dæmi — postulans Páls meina eg — að vera bæði

háir og lágir, nóg að hafa og skort að líða; lærum að varðveita heilagt jafnlyndi, í øllum kringumstæðum, og verða hvorki of ugglausir né drambsamir í meðlætinu, og ei heldur ørvæntnir né úrræðalausir í mótlætinu, þá er auðsjeð, að vér mentaðir érum í Jesú skóla, og berum því með sóma það nafn, að heita hans lærisveinar, og meigum því vona, nær hans stund er kominn, að øðlast trúrra þjóna laun af hendi vors Herra og lærimeistara; þá hann loksins mun sanna það sullkomliga og sýna í eilífðinni, að eingin blind hending, heldur vísdóms- og náðar-full ákvørðun, eingin tilgángslaus forløg, heldur samantemprað réttlæti og miskun, hefur, að sønnu í tilliti vorrar trúar og hlýðnis — þó allt uppá grundvøll hans eigin fullkomnu friðþægíngar — komið því til vegar, að ein óforgengilig réttlætis og dýrðar kóróna er oss geymd á himnum; nær hann undir eins að eilífu uppfyllir á oss þetta sitt fyrirheit: hvar eg er, þar skal og minn þénari vera, svo vér fáum þá að sjá hans dýrð, sem hans faðir hefur hønum gésið. O að vér allir verðum hæfir til að njóta þeirrar lukku eilífliga! Það veiti oss Guð fyrir Jesú Christí skuld! Amen!

## Bæn eptir prédikun.

Lof og þakkir séu þér, Faðir Drottins vors Jesú Christi, og Faðir vor allra í hønum! fyrir þitt heilaga orð, sem þú hefur géfið oss, til að vera lampa fóta vorra og ljós á vorum vegum, í gégnum tímann inni eilífðina! O lát það upplýsa oss svo, að vér sem fullkomnastir verðum, í þeirri speki, sem býr hjá þeim auðmjúku, og innifalin er í því, að óttast þig og forðast það, sem vondt er (Job. 25). Lát þvílík himnesk hyggindi fylla sálir vorar, og helga allann vorn lifnað, að vér fáum með vareygð brúkað þetta tímanliga, en með áhyggju stundað eptir því eilífa! Lát ei orvæntingu plága vor hjørtu í mótlætinu, né heldur oftraust blinda þaug í meðlætinu. Þegar oss heppnast það tímanliga, lát oss þá ekki

aukast ágirnd med ábata, heldur ánægju; ekki nídsku, heldur gjafmildi; ekki dramb, heldur audmýkt; aptur á móti, þegar vor jardnesku kjør eru mótfallin ósk vorri, lát oss aldrei freistast til ad grípa til óleifiligra medala, til ad bæta úr bøli voru, heldur med støduglyndi, í þínum ótta, láta oss vora lukku nægja! Veit oss ad setja alla vora von og traust, til þinnar føðurligrar forsjónar, vegna þinnar nádar fyrirheita, oss audsýndra og innsigladra af þínum elskuliga syni. Í einu ordi, kenn oss ad brúka svo heiminn, bædi í skorti og gnægd, ad vér ekki misbrúkum hann; brúka hann sem medal til vorrar lukku, en ekki sem lukkuhnossid sjálft; brúka hann sem fyrsta púnkt vorrar tilveru, undir hvørs brúkun þó komin eru vor sønnu lukku edur ólukku kjør, um alla eilífd! Lát ord þitt, Drottinn! verka þessa sønnu vitsku hjá øllum þess heyrendum nær og fjær, hjá yfirbodnum sem undirgéfnum, ríkum sem fátækum, innan kristninnar vebanda, svo blómi hennar og blessan fari æ varandi til þinnar dýrdar! Æ lát ogsvo þetta þitt guddómliga vísdómsord breidast vídar og vídar út, á medal þeirra þjóda, sem ennú í andligum myrkrum og daudans skugga sitja, svo þær loksins mættu allar verda dagsins børn ásamt oss, og læra ad þekkja þann, trúa á hann og elska, sem þú gjørdt og géfid hefur oss til vísdóms, til þess vér verdum skyldum réttlættir, helgadir og sáluhólpnir fyrir hann eilífliga! Ó Drottinn! bænheyr oss um þetta í hans nafni, þíns elskuliga sonar, vors endurlausnara og medalgángara; hvørjum, ásamt þér og heiløgum anda, sé lof og dýrd, frá eilífd til eilífdar! Amen! Amen!

---

☞ Evangelisk Smárit frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi géfins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þaug edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þaug, ef vilja.

---

Kaupmannahøfn 1849. Prentad hjá S. L. Møller.